# Sameiningin.

Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

8. árg. WINNIPEG, DESEMBER 1893. Nr. 10.

## *JÓLA-ENGILLINN.*

Eftir séra *Steindór Briem.*

Engill guðs frá uppheimssölum
inn um lítr hverjar dyr,
hlustar eftir, hvað vér tölum,
hjartans líka' um ástand spyr.

Jafnan hann á jörðu boðar
Jesú komu þennan dag,
gætir að og gjörla skoðar,
gleði- hvort vér sýnum -brag.

Ef hann heyrir agg og þrætur,
ekki vill hann koma inn;
friðarengill fer og grætr,
falla tár um bjarta kinn.

Sjái' hann kulda' og kærleiksleysi,
knur og hatr, eitthvað ljótt,
frá því skundar hryggr hreisi,
hraðar sér í burtu fljótt.

Auðlegð er hann sér hjá sumum,
snauðum sem er komin frá,
lítilsigldum, sjúkum, hrumum,
sannarlega' hann gengr hjá.

Deila' ei má í dag né þrátta,
drottni það ei líka mun;
gaf hann oss sinn son til sátta,
sína náð og velþóknun.

Engill þessa fregn oss færir,
frið, en ekki syndagjöld.
Ó, að hver, er syndin særir,
sanna huggun fengi í kvöld!

Ó, að vér með ánægt hjarta,
auðmýkt, kærleik, von og trú
litum engils ásýnd bjarta,
er hann kemr til vor nú!

Þótt hann hjá oss fátækt finni,
flýr hann ekki slíkan stað,
og þótt búi sorg í sinni,
sízt hann hopar fyrir það.

Fögnuð þar og frið hann boðar,
fag'ri lýsir birtu, sem
nú í austri' af röðli' er roðar;
rann upp stjarna' í Betlehem.

Blessuð sé hin bjarta stjarna;
ber hún ljós um allan heim.
Hún er gleði góðra barna,
gefr himnaríki þeim.

Barnið Jesús býr oss öllum
blessum, huggun, glaða von.
Jesú Krists á fótskör föllum,
föðmum guðs og mannsins son.

Elskum Jesúm, á hann trúum;
aldrei hann oss víki frá.
Jesú hjá oss bústað búum,
búið hann svo geti' oss hjá.

## *FÁTŒKA BARNIÐ.*

Eftir séra *Steindór Briem.*

Hver fær úthýst ungu barni
undir nótt í hríðarbyl?
Hver er sá, því húsrúm varni,
hjartað svo ei finni til?

Jesús fyrst í jötu gisti,
jörðu þegar kom hann á;
engill blessað barnið kyssti,
boðar það sé guði frá.

Þetta barnið, það er, síðan
því var úthýst fyrstu jól,
hrakið burt um heiminn víðar;
húsrúm því ei léð né skjól.

Hjartað er ei haft í ráðum,
hönd er ekki lögð á brjóst.
Augun munu opnast bráðum,
allt um síðir verðr ljóst.

Trúarleysi' er meinið manna,
margir vilja' allt skilja' og sjá,
allt á nú að sýna og sanna,
sumt er dœmt við rannsókn þá.

Sumum er það hneyksli' og heimska
heyra' um þetta barn og — kross.
Þó er meira' en meðalheimska
muna' ekki eftir sjálfum oss.

Ef vér viljum engu trúa
öðru en því, er sjáum vér,

hvar mun andinn hjá oss búa?
heyri'r hann nokkuð eða sér?

Fróðum mönnum finnst margt hulið,
fá ei skilið spekingar
það, sem oss er ekki dulið,
erum vér þó smælingjar.

(Elskum Jesúm, á hann trúum,
öll er kemr huggun frá.
Honum hjá oss bústað búum,
búið svo hann geti' oss hjá.)

Blessað sértu barnið unga,
birtu fœrðir þú á jörð.
Æ þig heiðri' hjarta' og tunga.
Heyr þú vora þakkargjörð.

## *EITTHVAÐ MÁ TIL AÐ GJÖRA.*

Lauslega þýtt úr *Workman.*

Það eru peninga-vandræði á þessum tíma í landinu. Tekjur kirkjunnar hafa minnkað. Margir hafa enga atvinnu. Viðskiftalíf allt er lamað. Vér erum í hvívetna að verða á eftir. Laun þau, sem prestr, organisti og aðrir starfsmenn safnaðarins eiga að hafa, borgast illa, og söfnuðrinn lendir í meiri og meiri skuld. Reikningar til safnaðarins fyrir viðgjörðir á kirkjunni, fyrir eldivið og ljós standa óborgaðir. Í einu orði að segja: „Eitthvað má til að gjöra, ellegar kirkja og sunnudagsskóli hljóta að bíða stórtjón eða hætta með öllu."

Það er hverju orði sannara, að „eitthvað" má yfir höfuð að tala til að gjöra, en þetta „eitthvað", sem átt er við í einstökum tilfellum, er jafnaðarlega í öfuga átt. Það hefði átt að gjöra þetta, sem nú er ógjört, áðr, en þá var það vanrœkt. Safnaðarfulltrúarnir, er kjörnir voru til hins ábyrgðarmikla hlutverks, að gjöra eitthvað, gjörðu margir hverjir ekki neitt, og sökum þeirrar vanrœkslu er fjárhagrinn kominn í vandræði. Nú undir árslokin er þetta að verða söfnuðinum ljóst, og menn eru nú á-

hyggjufullir, er þeir hafa tekið eftir því, að allt til þessa hefir engin ráðstöfun verið gjörð til að koma í veg fyrir vandræðin, sem komin eru, þar sem hver einstakr þeirra manna, er söfnuðrinn stendr í skuld við, verðr að fá sitt, og hver skuld að vera borguð á heiðvirðan hátt.

En nú koma örðugleikarnir. Hvað á að gjöra? Hvernig er unnt að komast yfir fé það, sem vantar? það er nú aðalatriðið. Svo framarlega sem aðrar grundvallarsetningar ekki ráða í söfnuðinum, leggr einhver það til, að farið sé að eins og í mörgum öðrum söfnuðum. þetta *eitthvað*, sem má til að gjöra, þýðir nú: matarsamkoma, skemmtisamkoma, leikr, dans o. s. frv. Með slíkum töfrasprota á að mega láta allt verða að peningum og gjöra alla rólega. — Ó, háðung og hneyksli! Geta menn þá aldrei lært að skammast sín? Sé svo, að annað fólk eigi að bera kostnaðinn, sem trúarbrögð vor hafa í för með sér, þá gjörið svo vel að segja það svo að allir heyri efst ofan af húsþökum yðar, að reyndar séum vér menn til að borga kjöt og aðrar matvörur, sem til heimilis vors þurfa, en til hins séum vér of fátækir að standast kostnaðinn, sem trúarbrögð vor hafa í för með sér, og hljótum að biðja aðra að hjálpa oss með þessu fallega móti! En á hinn bóginn, séum vér þeir, sem bera eigum kostnaðinn af vorum eigin trúarbrögðum, þá gjörum það tafarlaust og vörpum ekki áhyggju vorri upp á aðra.

En hvernig er þá unnt að gjöra þetta? Ekkert er auðveldara, ef rétt er farið að. Látum safnaðarfulltrúana búa út skjal til að safna á nöfnum manna innan safnaðarins, sem eitthvað vilja gefa, og *á undan öllum öðrum setji fulltrúarnir þar sín eigin nöfn og upphæð þá, er þeir gefa.* því næst sé hver einasti maðr, er kirkjunni til heyrir eða í hana gengr, fundinn að máli og þörf safnaðarins lögð fram fyrir hann. þar sem það er nauðsynlegt, sé fáeinar hinna aldraðri kvenna safnaðarins fengnar til að finna suma kvenlega safnaðarlimi, svo enginn sé eftir skilinn. þar sem þessu verðr með engu móti við komið fyrir þá sök, að svo eða svo stendr á með atvinnu karlmanna, haldi prestrinn eftir prédikan söfnuðinum kyrrum í kirkjunni, skýri honum greinilega frá því, hvernig fjárhagrinn stendr, sýni, hve mikla fjárupphæð þarf að hafa upp, og brýni fyrir honum nauðsynina á að framkvæma þetta án tafar. Söfnuðinum sé í

því sambandi vel og rækilega vísað á hina réttu aðferð kristilegs kærleika til að bæta úr fjárkröggunum, að hann fái séð, hve auðvirðilegt það er og ókristilegt, að ná inn fé til að borga fyrir sína eigin trú með matarveizlum og skemmtisamkomum eða öðrum slíkum fjárveiðibrellum. Og svo sé alvarlega skorað á menn, að hver einstakr gjöri það, sem hann getr, og spari það, sem hann getr, og leggi svo áreiðanlega sinn skerf fram í kirkjunni næsta sunnudag, ekki eins og neina náðargjöf, heldr sem tillag, er hann lætr af hendi sér sjálfum til andlegrar blessunar. Hvað eftir annað höfum vér séð þessa aðferð viðhafða, og aldrei hefir það brugðizt, að hún dygði. Kristinn safnaðarlýðr sýnir með þessu móti, að hann hefir tilfinning fyrir því, hvað rétt er, og ber virðing fyrir sjálfum sér. Og hafi svona verið farið að, þá hefir það æfinlega á eftir orðið presti og söfnuði ánægjuefni. Þegar svona er farið að, þá þarf ekki að fara í neina matarbón út á meðal fólks; menn sleppa við allan matarsamkomu-undirbúning, allt það stjá, alla þá hörkuvinnu, sem lendir á einstökum mönnum í sambandi við slíkar samkomur.

Einn glöggskyggn kirkjumaðr í einum vorra lútersku safnaða sagði nýlega: Upp frá því að rutt var matsuðuofninum burt úr undirbygging kirkju vorrar og hætt var við matarveizlu-kærleikann höfum vér haft bæði peninga og frið í söfnuðinum. Á mörgum stöðum eru Lúterstrúarmenn sá einasti kirkjuflokkr, sem ekki vill neitt hafa að segja af þessari ókristilegu aðferð til fjárafla. Þeir eru sem standandi mótmæli gegn öðrum kirkjuflokkum, sem elta þessa hjáguði. Þeir hafa ekkert andmælandi orð að segja gegn félagslegum skemmtunum yfir höfuð, en þeir vilja með engu móti blanda þeim inn í trúarbrögð sín og setja leik í staðinn fyrir skyldu. Kvekari nokkur sagði eitt sinn um þá: „Þeir hafa þá trú, að hvert ílát eigi að standa á sínum eigin botni“. Œstr áhangandi ólútersks flokks nokkurs, sem allt af var að narta í lútersku kirkjuna, skaut þessu þá eitt sinn út: „Þeir (nl. Lúterstrúarmenn) hafa enga trú, sem nokkur andi er í, en það vil eg um þá segja, að þeir eru ráðvandir menn og borga skuldir sínar, og alveg eins borga þeir allan þann kostnað, sem trúin þeirra, smávaxin eins og hún er, hefir í för með sér, án þess að biðja almenning að hjálpa sér til að borga hann, *eins og vér hinir gjörum*“! — Óskandi væri, að þetta yrði sagt um

fólk vort allsstaðar. Hörmulega oft verðr freistingin of mikil til að gjöra í þessu efni eins og aðrar kirkjudeildir, sem á þeim eða þeim staðnum eru mannsterkari, og hafi menn einu sinni kastað sér inn í strauminn, þá má ganga að því vísu, að smásaman verði verri og verri aðferðin, sem við er höfð til að afla söfnuðinum nauðsynlegs fjár.

---

Upp á spurninguna um það, hvort kristindómrinn sé á yfirstandandi tíð að vinna, ellegar neyðist nú til að þoka fyrir kenningum skynsemistrúarmanna, svarar Philadelphia *Sunday School Times* þessu:

Hvaða ástœða skyldi vera til efasemdar þessu máli viðvíkjandi? Það er vissulega meira af kristnum mönnum í heiminum nú en var á hinni fyrstu kristnu hvítasunnu. Aldrei áðr hafa eins margir menn kristnir verið uppi eins og á þessum tíma og aldrei heldr eins margir af íbúum jarðarinnar lærisveinar Krists í samanburði við játendr annarra trúarbragða. Þótt líf kristinna manna sé langt fyrir neðan það, sem kristindómrinn heimtar, þá hafa þó fáir helgir menn til forna náð annarri eins lífernis-fullkomnan og fjöldi kristinna manna gjörir nú. Þúsundir safnaða geta sýnt œðra andlegt líf en almennast tíðkaðist í söfnuðum postulakirkjunnar, sem bréfin í nýja testamentinu voru rituð. Líf eins meðalmanns í kristninni nú er betra en líf eins meðalmanns í kristninni á 2. öldinni eða 18. öldinni eða hverri öldinni, sem vera skal, þar á milli. Trúarfjör Páls postula og kærleikr Jóhannesar postula var ekki meira en trúarfjör og kærleikr margs kristins manns þann dag í dag. Til eru nú kristnar konur, sem taka þeim Lydíu og Febe fram. Aldrei áðr hafa eins margir kristnir menn og nú verið uppi ákveðnir í því að leggja allt í sölurnar fyrir Krist. Aldrei áðr hafa kristnir trúboðar og þeirra lærisveinar verið svo fúsir sem nú til að gjörast píslarvottar Krists. Og að því er snertir ávextina af kristindóminum í lífi játenda hans, og eins að því er snertir áhrif kristindómsins á framferði almennings innan safnaða og utan, þá hefir þessi síðasta öld sýnt merkilega og makalausa framför. Það er minna nú en nokkurn tíma áðr af drykkjuskap, ósiðsemi eða spilamennsku; og það er minna af ósvífinni afneitan og ó-

skammfeilnum guðlöstunum. Sá tími hefir aldrei verið áðr, að hugir manna á svo stóru svæði heimsins hafi um biblíuna snúizt eins og nú, eða að eins margir vísindalega menntaðir menn hafi viðrkennt boðskap hennar sem guðs orð. Hvert sem litið er og hvað sem hugsað er um, þá hefir kristindómrinn stórvægilega unnið, og framför kristninnar er meiri einmitt nú en nokkru sinni áðr. Hvílík heimska að geta jafnvel látið sér detta í hug að efast um annað eins!

---

## *HÁSKÓLAMÁLIÐ.*

Rétt fyrir lok alþingis á síðast liðnu sumri tóku nokkrir þeirra manna, er á þingi sátu, ásamt fáeinum heldri mönnum í Reykjavík sig saman um að vekja áhuga félagsbræðra sinna á þinginu og almennings, fyrst þar í bœnum og síðan út um allt Ísland, á stofnan háskóla heima á ættjörðinni. Brátt urðu þeir fleiri, er gengu í þennan félagsskap, og er tala bandamanna þessara var orðin 30, höfðu þeir fund með sér og kusu 9 manna nefnd, sem fyrst um sinn skyldi hafa framkvæmd í málinu og þá sérstaklega gangast fyrir því, að myndaðr yrði svo kallaðr „háskólasjóðr“ með almennum frjálsum fjártillögum frá almenningi, og skyldi framkvæmdarnefndin láta áskoran þar að lútandi út ganga til þjóðarinnar.

Mennirnir, sem kosnir voru í þessa framkvæmdarnefnd, eru þessir: Benedikt Sveinsson, sem forseti var á þinginu, Hannes Þorsteinsson, ritstjóri *Þjóðólfs*, Jón Vídalín, kaupmaðr, J. Jónasen, dr. med., Jón Þorkelsson, dr., ritst. *Sunnanfara*, Sighvatr Árnason, þingmaðr Rangæinga, séra Sigurðr Gunnarsson, þingmaðr Norðr-Múlasýslu, séra Sigurðr Stefánsson, þingmaðr Ísfirðinga, og séra Þórhallr Bjarnarson, prestaskólakennari. En áskoran sú, er þeir sendu út og dagsett er í Reykjavík 27. Ágúst er þannig:

„Í lok alþingis 1893 bundust eftirfylgjandi 30 menn samtökum að vekja áhuga þjóðarinnar á stofnun háskóla og gangast fyrir samskotum til að flýta framkvæmdum þess máls.“

(Síðan eru allir þessir 30 menn nefndir, en þeirri nafnaskrá sleppum vér.)

„Á fundi, sem þessir menn áttu með sér í dag, var ákveðið, að kjósa 9 manna nefnd: 3 búsetta í Reykjavík, 1 í hverjum fjórðungi landsins og 2 í Kaupmannahöfn, til að gangast fyrir framkvæmdum þessa félagsskapar, og vorum vér [undirritaðir] kosnir til þess".

„Hin innlenda lögfræðiskennsla hefir um fullan mannsaldr verið einna efst mál á dagskrá þings og þjóðar, en auk hennar hafa menn jafnframt fundið til þess æ betr og betr, hve brýn nauðsyn er til, að hafa hina æðri menntun, að því er kraftar vorir leyfa, í sjálfu landinu, hvort heldr litið er til þjóðernis vors og landsréttinda, eða til vísindalegra og verklegra framfara."

„Krafa vor er því háskóli, og vér vitum, að í þeirri baráttu höfum vér hluttöku alls hins menntaða heims."

„Væntanlega skýra blöðin rækilega þýðing þessa máls og hvernig því verðr bezt framkomið í verki."

„Alþingi hefir fyllilega viðrkennt háskólaþörfina, en áhuga þjóðarinnar má eigi bresta til að halda máli þessu fram til sigrs, og áhuga sinn sýnir þjóðin bezt með því nú þegar að byrja samskot til háskólasjóðs, sem fram verðr haldið til þess er stofnunin kemst á."

„Vér skorum því á alla Íslendinga hér og erlendis og alla Íslands vini að styðja mál þetta af alefli í orði og verki."

„Sjóðrinn, sem heitir „*Háskólasjóðr Íslands*", ávaxtast í landsbankanum, og hefir bankastjórinn, hr. Tryggvi Gunnarsson, tekið að sér geymslu fjárins, og má senda allar gjafir beint til hans eða til hvers sem vill af undirrituðum. Í byrjun hvers árs verðr birt á prenti upphæð sjóðsins, og auk þess verða allar gjafir tafarlaust auglýstar í blöðunum."

„Þegar svo er komið, sem vér vonum að verði innan skamms, að löggjafarvaldið er orðið samtaka um stofnun háskóla á landi hér, rennr háskólasjóðrinn til þeirrar stofnunar eftir nánari ákvörðun alþingis í samráði við kennendr hinna íslenzku embættaskóla, og öll aðalumsjón sjóðsins er falin alþingi, og ber jafnan að gjöra því skilagrein fyrir sjóðnum."

*Sameiningin* hefir ekki getað auglýst þessa áskoran fyr en nú. En sá dráttr gjörir málinu að vonum engan baga, því bæði er það, að hin stœrri blöð Vestr-Íslendinga hafa fyrir

nokkru gjört fólki voru hér skjalið og málið kunnugt, og í annan stað hefir fjárhagr íslenzkrar alþýðu hér í landinu einmitt nú upp á síðkastið verið með langerviðasta móti, svo að meðmæli frá vorri hálfu með áskoran þessari hefði vafalaust ekki haft meiri árangr, þótt þau hefði komið einum eða tveimr mánuðum fyr heldr en þau geta haft nú. Því miðr höfum vér enga von um að það mál, sem hér er um að ræða, eða hinn nýmyndaði háskólasjóðr, fái í bráð nokkurn styrk héðan að vestan, sem um munar. Peningalegt harðæri gengr yfir allt þetta land á þessum tíma, og Íslendingar bæði syðra og nyrðra eiga eins og aðrir ákaflega örðugt með að fleyta sínum eigin félagsmálum áfram, svo örðugt, að aldrei hefir verra verið. Svo að eigi má búast við neinum fjársamskotum, sem teljandi sé, frá Íslendingum hér sjóði þessum til handa meðan fjárhagur þeirra ekki kemst úr hinum núverandi kröggum. En vér þurfum varla að taka það fram, að vér erum af öllu hjarta hlynntir þessu íslenzka háskólamáli. Oss finnst, að hver einasti Íslendingr, sem á annað borð ekki óskar eftir því, að hin fámenna þjóð vor sé sem fyrst þurrkuð út úr tölu þjóðanna, heldr vill, að hún lifi sælla og sjálfstæðara lífi en hún lifir nú, sérstaklega í andlegu tilliti, hljóti að vilja, að það mál, sem hér er um að ræða, hafi fljótan og góðan framgang. Íslendingar hafa langt um of lengi „dependerað“ af Dönum eða háskólanum danska með alla sína æðri menntan og allt sitt andlega líf. Kaupmannahafnar-menntan Íslendinga hefir miklu meira illt en gott haft í för með sér fyrir land þeirra og lýð. Það er að vorri ætlan ekkert meira ólán til fyrir Ísland en þessar Hafnargöngur íslenzkra stúdenta, sem allt af eru nú að fara í vöxt. Vér höfum marg-minnzt á það þjóðarböl, meir og oftar en nokkur annar. Svo auðvitað var, að oss myndi þykja vænt um að heyra málið um stofnan háskóla á Íslandi sett eins greinilega á dagskrá og nú hefir gjört verið. Því með því reis upp von í huga vorum um það, að hið áminnzta þjóðarböl myndi þó einhvern tíma hætta, og von einnig um það, að sjálfstætt íslenzkt menntalíf, miklu frjálslegra og margbreytilegra en verið hefir meðan menntalýðrinn hefir eingöngu verið undir dönskum áhrifum, myndi framkoma í landinu. Geti nokkurn tíma komizt inn í þjóð vora sannr frelsisandi og ljós meðvitund um að hún sjálf verðr að hafa alla ábyrgðina á því,

hvernig hagr hennar stendr, þá ætti það sannarlega að verða með því að hún eignist þvílíka allsherjar menntastofnan og nú er um að rœða í sínu eigin landi. Málinu var líka undir eins tekið einkar vel þar heima, því að innnan farra daga frá því að áskoranin varð til, voru samskotin til sjóðsins orðin í Reykjavík um þúsund krónur, sem er býsna mikið eftir íslenzkum mælikvarða. Og eftir blöðunum að heiman að dœma var búizt við allt eins góðum undirtektum út um land.

Þó að ástœður Vestr-Íslendinga sé sem stendr þannig, að eigi sé í bráðina að búast við neinum fjársamskotum háskólasjóðinum íslenzka til handa, er það einlæg ósk vor og von, að síðar sýni þeir það í verkinu, að þeir eru með brœðrum sínum heima í þessu máli. Auðvitað er fyrir oss alla hér í frumbýlingsskapnum æfinlega í mörg horn að líta, að því er sneitir fjárframlög til vorra eigin félagsmála, en engu að síðr er í vanalegum árum svo mikil vellíðan margra af fólki voru hér, að þeir ætti að geta ofrlítið verið með í að styðja það bezta og þýðingarmesta almenningsmál, sem nú er uppi á Íslandi. Ýmsir góðir menn á Íslandi hafa þegar sýnt það, að þeir vilja bæði í orði og verki hlynna að skólamáli kirkjufélags vors hér. Og þá ætti vissulega lýðr þess sama kirkjufélags að sýna, að hann vill líka vera með í því að styðja þetta nýja háskólamál landa vorra heima á ættjörðinni, það því fremr, sem gild ástœða er til að ætla, að stofnan háskóla á Íslandi verði einnig íslenzku kirkjunni til mikils góðs.

Og svo leggjum vér að ending fram fyrir lesendr *Sam.* eftirfarandi brot af ritstjórnargrein í *Sunnanfara* um háskólamálið, með því það kemr svo ágætlega saman við skoðan vora:

„Eru ekki feðr og mœðr á Íslandi búin að fá nóg af að leggja of fjár með sonum sínum til þess að láta þá eyða því við nám í öðru landi, með, ef til vill, verri en engum árangri og nær allt af með honum ónógum? Vilja mœðurnar á Íslandi hafa það enn framvegis, að drengirnir þeirra sé sendir niðr til Khafnar-háskóla til þess, ef til vill, að glatast þar alveg sem týndir sauðir? Vilja þeir, sem eru guðs ástvinir og trúmenn á landi voru halda áfram að sökkva sonum sínum niðr í þann guðleysispytt, sem hinir íslenzku kennimenn skýra frá að Khöfn sé? Eru menn ekki búnir að fá nóg af að hafa látið dýrgripi vora

og rit frá fornum öldum sópast úr landi og hverfa úr eign vorri, þótt ekki sé því bætt ofan á, að láta það, er dýrast eigum vér nú, sem eru synir landsins, út á það hjarn, þar sem fjöldi þeirra hafa misst svo gjörsamlega fótanna, að engin hefir verið von uppreisnar? Ætli það ætti ekki að vera liðnir þeir tímar, þegar öll virðing gekk niðr á við í landi voru og ekki þótti til neins koma nema danskt væri, og jafnvel auðmönnum þótti mest í munni að gefa Dönum fé sitt, en innlendum engum?“

---

Í *Þjóðólfi* 17. Okt. svarar ritstjórinn upp á það, sem vér í neðanmálsgreininni litlu í sumar sögðum um blaðið hans. Í því svari, sem reyndar er lítið annað en vonzkufullar persónulegar skammir um oss, stendr meðal annars þetta: „Ritstjóri *Sameiningarinnar* hefir auðsjáanlega langað til, að *Þjóðólfr* gjörði þetta álit sitt heyrum kunnugt, því að annars myndi hann hafa látið *Þjóðólf* hlutlausan, þar sem hann hefir *alls ekkert til saka unnið* við „*Sam.*“ o. s. frv. Vér sleppum því nú algjörlega, hvort álit það, sem þessi ritstjóri hefir á oss og lætr í ljós í þessari skammargrein, er rétt eða rangt, en snúum oss heldr að hinu, er hann segir, að blað sitt hafi ekkert unnið til sakar. Hann prentar þessi orð: *alls ekkert unnið til sakar* með skáletri til þess að sýna, að á þau eigi að leggja sérstaka áherzlu. Svo að meiningin er þá augsýnilega sú, að þá fyrst hefði verið nokkur ástæða fyrir oss til að láta slíkt álit á *Þjóðólfi* í ljós og vér gjörðum, ef vér hefðum átt eitthvað persónulega illt úti standandi við ritstjórann. Það gægist hér fram sú lága og ljóta skoðun hjá þjóðarleiðtoga þessum, að engin ritstjóri hafi leyfi til að tala móti því eða því opinberu máli, þeirri eða þeirri opinberri stofnan, því eða því opinberu málgagni, nema því að eins að þeir einstöku menn, sem viðriðnir eru við þau mál, þær stofnanir, þau málgögn, hafi persónulega gjört eitthvað á hluta þess sama ritstjóra. Sé maðrinn, sem stendr á bak við það eða það blaðið á Íslandi persónulegr vinr vor, þá eigum vér að þegja um það blað, ekki segja eitt orð á móti því, hversu hjartanlega sem vér erum sannfærðir um skaðsemi þess boðskapar, er það blað flytr. Eigi hið gagnstæða sér stað, þá megum vér segja allt illt, sem oss kemr til hugar. Eftir þessari reglu hefir líka rit-

stjóri *Þjóðólfs* augsýnilega farið, að því er snertir *Sameiningunа*; — og vafalaust fylgir hann sögu reglu, að því er til annarra blaða kemr. Hann hefir steinþagað um skaðsemi *Sameiningarinnar* þangað til nú allt í einu, að illt kemr í hann við oss út af dómi vorum um *Þjóðólf*. Þá fyrst fær hann rétt og skyldu til að segja öllum sínum lesendum, hve óhafandi blað vort sé. Þá fyrst fær hann köllun til að fella yfir blaði voru og sjálfum oss fordœmingardóm. En það, að hann kveðr upp dóm sinn yfir oss eftir að þessi mikla vonzka oss til handa er í hann hlaupin, mun geta gjört flestum skiljanlegt, að sá dómr sé heldr óáreiðanlegr. Það breytir víst ekki einn einasti maðr áliti sínu á *Sameiningunni* og ritstjóra hennar fyrir þetta dómsatkvæði *Þjóðólfs*, er menn vita, hvernig það er til orðið. Menn vita, að það er ekki vitund að marka, af því að það er kveðið upp í reiði og af löngtil að hefna sín. Allir slíkir dómar falla steindauðir til jarðar.

Það er náttúrlega alveg satt, sem ritstjóri *Þjóðólfs* segir, að blaðið hans hafði alls ekkert „unnið til sakar" við oss persónulega, þá er vér opinberlega létum álit vort á því sama blaði í ljós. Ritstjóri *Þjóðólfs* var ekki óvinr vor, ekki neitt í þá áttina. Hann er oss persónulega nálega allsendis ókunnugr. En einmitt það, að svona stóð á, er býsna sterk trygging fyrir því, að engar persónulegar tilfinningar né óhreinar hvatir hafi ráðið í dómi þeim, er vér felldum yfir *Þjóðólfi*. Og sannleikrinn er nú líka einmitt sá, að það, sem vér sögðum um það blað, sögðum vér samkvæmt fullkominni sannfœring út af gefnu tilefni, því tilefni, sem brotið af Íslandsbréfinu og ummæli þess um blöðin íslenzku komu með. Hefðum vér ekki fellt dóm vorn yfir *Þjóðólfi* fyr en eftir að ritstjóri hans var búinn að gjöra á oss hina persónulegu árás með skammargrein sinni, þá hefði margfalt síðr verið að búast við sanngirni og sannleik í dómi vorum. Það er mjög heimskulegt af ritstjóranum, að þjóta upp með öðrum eins persónulegum illyrðum um oss eins og hann gjörir í grein sinni út af því að vér töluðum öðruvísi um blaðið hans en honum líkaði, í stað þess annaðhvort að þegja ellegar að reyna til að hnekkja dómi vorum með einhverjum rökum. Önnur eins framkoma hlýtr að varpa aukinni óvirðing yfir hið umrœdda blað. Það sést nú gegnum þessa stórmennskufullu skammargrein um

oss, að hinir ljótu eiginlegleikar *Þjóðólfs* eru fleiri en vér nokkurn tíma höfum bent á.

það er gefið í skyn í þessari *Þjóðólfs*-grein, að *Sameiningin* kunni, ef til vill, áðr að hafa haft einhver áhrif þar heima á Íslandi, en svo er sterklega tekið fram, að þau áhrif sé *nú* engin. það er ekki örðugt að sjá, hvernig þessu víkr við. það stendr fullt eins vel með *Sam.* á Íslandi nú eins og nokkru sinni áðr, enda hefir blaðið haldið sömu stefnunni alla sína æfi. En ritstjóri *Þjóðólfs* reiðist oss út af því, sem vér höfðum sagt um blaðið hans. Og svo breytist skoðan hans á *Sam.* óðar; hún er nú óþolandi blað, full af „frekjufullum ofstækis rithætti", „hranalegum dómsúrskurðum um allt og alla hér heima"— fyrir utan það „yfirskin trúarvandlætingarinnar, sem stýrt hefir penna séra J. B. einnig í þeim málum, sem ekkert eiga skylt við kirkju og kristindóm". Áðr hafði *Sam.*, ef til vill, einhver áhrif heima á Íslandi, en nú — síðan hún kom með neðanmálsgreinina um *Þjóðólf* og dœmdi hann — hefir hún alls engin áhrif. það er óneitanlega dálítið kátlegt, að heyra ritstjórann um leið og hann er að hefna sín fyrir þau fáu orð, sem um blaðið hans stóðu í *Sam.*, fullyrða, að blað vort hafi engin áhrif þar heima. Grein hans ber þó sannarlega vott um, að ritstjórinn hafi verið undir áhrifum, er hann setti hana saman. Og ekki er það síðr skrítið, er hann á öðrum stað í greininni kemst svo að orði: „Vér — — tökum svo sáralítið tillit til kjarnyrðanna, er oss berast að vestan. það er orðin venja að lesa þau með einskonar meðaumkvunar-brosi." Menn lesi þessa *Þjóðólfs*-grein, og munu fáir komast á þá skoðan að ritstjórinn hafi ritað hana brosandi. Og þar sem sú grein er út af orðum, sem *Sam.* flutti héðan að vestan, nl. orðum vorum um *Þjóðólf*, þá eru heldr lítil líkindi til, að ritstjórinn hafi lesið þau orð brosandi.

Skelfing er annars þessi *Þjóðólfs*-grein böngulega rituð· það er *Þjóðólfs*-stýll í lakara meðallagi. Hver skilr aðra eins orðasamsetning eins og þetta, sem áðr er tilfœrt: „yfirskin trúvandlætingarinnar einnig í þeim málum, sem ekkert eiga skylt við kirkju og kristindóm"? Eða annað eins orðalag og það segja, að ritst. *Sam.* hafi „í einhverju *ofstækis* óráði *sykrað* blað sitt"? þar sem ritstjórinn kallar oss *drenghnokka*, „illa vaninn og illa upplýstan", þá hefir hann lánað þann titil hjá séra Ólafi í Arn-

arbœli (úr húsvitjunar-fyrirlestrinum), og um það er lítið að segja, úr því hann gat ekki sjálfr fundið upp neitt betra. En þegar hann rétt á eftir kallar oss „patríarka", þá sýnir ritstjórinn, að hann er ekki mikið virkilegleika-skáld, því að vér vitum ekki til, að „drenghnokki" og „patríarki" hafi nokkurn tíma sameinazt í einni og sömu persónu. Því trúir enginn, að ritstjóri *Sam.* geti verið slíkt „amfibíum". Ritstjórinn nefnir meðaumkvunarbros. Það brosa margir þesskonar brosi yfir *Þjóðólfi* í framtíðinni, ef stýllinn ritstjórans verðr ekki betri en í þessari ritstjórnargrein.

---

*Barnasálmar* eftir séra Valdemar Briem (Rvík 1893). — Þetta litla kver kom of seint í hendr vorar til þess vér gætum lýst því hér í blaðinu eins og vér vildum nú fyrir jólin. Það hefði þó átt svo vel við, því kverið er einmitt svo notaleg jólagjöf handa börnum. Það eru 50 sálmar, einfaldir og stuttir, flestir út af einhverri ritningargrein flestir ágætlega vel lagaðir til að vera sungnir í sunnudagsskólum. Vér teljum víst, að þegar sunnudagsskólakennendr vorir hafa kynnt sér sálmasafn þetta, verði þeir samhuga um að koma því inn í skóla sína. — Kverið er hér í Winnipeg til sölu hjá brœðrunum Magnúsi og Vilhelm H. Pálssonum (618 Jemima Str.).

Ritstjóri *Ísafoldar* hr. Björn Jónsson gaf fyrir nokkru út þýðing af ritlingi *Drummonds „The Greatest Thing in the World"* (Mestr í heimi). Nú er það rit út komið á ný í nýrri endrbœttri þýðing, þar sem þýðandinn hefir haft fyrir sér áreiðanlega útgáfu af frumritinu. Og annan merkan ritling eftir sama fræga höfund hefir hr. Björn Jónsson nú líka þýtt og nýgefið út: *Pax vobiscum* eða „Friðr sé með yðr". Í þeim ritlingi er lagt út af hinum inndælu orðum Krists í Matth. 11, 28—30: „Komið til mín, allir þér, sem þreyttir eruð og þunga hlaðnir", o. s. frv. — Útskýringin, sem Drummond kemr með á orðunum: „Takið á yðr mitt ok", er sérstaklega merkileg. — Báðir þessir þýddu ritlingar Drummonds verðskulda það, að þeir fai útbreiðslu hjá fólki voru.

---

Frumvarp til safnaðarlaga fyrir söfnuði kirkjufélags vors var samþykkt á kirkjuþingi 1887, og á kirkjuþinginu í fyrra (1892) var það endrbœtt með dálítilli viðbót, sem nauðsynlegt er að komist inn í grundvallarlög allra safnaða vorra. Hið endrbœtta safnaðarlagafrumvarp var prentað í *Sam.* á síðastliðnu sumri, í Júní-nr.inu. En um leið var af því tekin sérprentan á nokkrum hundruðum exemplara, sem ætlazt var til að út-

bytt skyldi í söfnuðunum, eftir því sem almenningr þyrfti á að halda. Þessi sérprentuðu safnaðarlagafrumvörp geta menn nú fengið hjá öllum prestum kirkjufélagsins. Minnum vér fólk á þetta nú sérstaklega, áðr en söfnuðirnir halda sinn aðalfund rétt eftir nýár, því á þeim tíma munu flestir safnaðanna eiga að halda sinn aðalfund samkvæmt nú gildandi safnaðarlögum sínum. Væri réttast, að þeir einmitt á þeim fundi endrbætti grundvallarlög sín samkvæmt þessu yfirskoðaða og aukna frumvarpi frá kirkjuþinginu.

---

Hallson-söfnuðr í Pembina Co., N. Dak., hefir sökum prestþjónustuleysis að miklu leyti legið í dái hin síðustu ár. En á fundi í Hallson 15. Nóv. var söfnuðrinn endrlífgaðr, nýir embættismenn kjörnir og formlega samið við séra Jónas A. Sigurðsson um prestþjónustu framvegis, og var einnig á fundinum samþykkt yfirlýsing um það, að söfnuðr þessi stœði eins og áðr í kirkjufélaginu.

---

Biblíur og nýja testamenntið til kaups hjá ritst. SAM.

---

Lexíur fyrir snnnudagsskólann; fyrsti ársfjórðungr 1894.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. lexía, sunnud. | 7. Jan.: | Hinn fyrsti maðr Adam: | 1. Mós. 1, 26—2, 3. |
| 2. lexía, sunnud. | 14. Jan.: | Synd Adams og náð guðs: | 1. Mós. 3, 1—15. |
| 3. lexía, sunnud. | 21. Jan.: | Kain og Abel: | 1. Mós. 4, 3—13. |
| 4. lexía. sunnud. | 28. Jan.: | Sattmáli guðs við Nóa: | 1. Mós. 9, 8—17. |
| 5. lexía, sunnud. | 4. Febr.: | Upphaf hinnar hebresku þjóðar: | 1. Mós. 12, 1—9. |
| 6. lexía, sunnud. | 11. Febr.: | Sattmáli guðs við Abraham: | 1. Mós. 17, 1—9. |
| 7. lexía, sunnud. | 11. Febr.: | Dómr drottins yfir Sódómu: | 1. Mós. 18, 22—38. |
| 8. lexía, sunnud. | 25. Febr.: | Trúarraun Abrahams: | 1. Mós. 22, 1—13. |

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson* sendir "Sameininguna" út. Adressa hans er: 164 Kate St. Til hans snúi menn sér viðvíkjandi afgreiðslu blaðsins.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Bóndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.